Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

40. tölublað | Þriðjudaginn 15. nóvember | 6. árgangur. | Verð kr. 60.



# Evrópukommúnisminn

EVRÓ-KOMMÚNISTAR ÓSÁTTIR VIÐ SOVÉSKU ENDURSKOÐUNARSINNANA

Á síðustu árum hafa flestir endurskoðunarsinnaflokkar Evrópu heimtað aukið sjálfstæði gagnvart sovéska flokknum. Á heimsþinginu sem haldið var í fyrra í Berlín, var hver höndin upp á móti annari og um sameinaða stefru var ekki að ræða. Nú þegar 60ár eru liðin frá Októberbyltingunni hafa þessar deilur blossað upp að nýju. Helstu forvígismenn svonefndra Evrókommúnista eru Berlinguer, formaður ítalska flokksins, Marchais frá Frakklandi og Carillo frá Spáni. Raunar höfðu allar hugmyndir nútíma endurskoðunarstefnunnar í gervi Evró-kommúnismans komið fram hérlendis fyrir löngu, eða þegar 1938. Enda hafa forystumenn íslenskra endurskoðunarsinna dregið sig meira undan beinni stjórn Moskvu en gerist um aðra Evrópska skoðanabræður þeirra.

Hvað er Evró-kommúnismi ?

Þegar Krúsjeff hélt hina illræmdu ræðu sína á 20.þingi sovéska flokksins árið 1956, réðist hann gegn grundvallaratriðum sósíalismans. Hann afneitaði alræði öreiganna og flokki öreiganna, hann lýsti því yfir að friðsamlegar byltingar væru ekki aðeins mögulegar, heldur líka æskilegar, með tilliti til "ágætis" borgaralegs þingræðis og vegna yfirvofandi kjarnorkustyrjaldar. Evró-kommúnisminn skilur sig ekki frá þessari endurskoðun marxísmans á nokkurn hátt. "Söguleg málamiðlun" Berlinguers, er ekkert annað en "friðsamleg bylting" Krúsjeffs. Í febrúar 1976 afneitaði flokksþing franska endurskoðunarsinnaflokksins hugtakinu "alræði öreiganna" og að sjálfsögðu valdbyltingunni um leið. Jafnframt var flokkurinn lýstur sameinandi alls fólksins. Carillo hefur sömuleiðis afneitað valdbyltingunni og lýst því yfir að hið nýfengna "borgaralega lýðræði"á Spáni sé spænskum endurskoðunarsinnum nægjanlegt. Hann vill líka "friðsamlega byltingu" í anda Krúséffs. Hérlendis lögðu íslenskir endurskoðunarsinnar niður byltingarmarkmið sín löngu áður og gerðu sína "sögulegu málamiðlun" við auðvaldið í Nýsköpunarstjórninni árið 1942, En hvers vegna fara þá Evró-kommúnistar í hár saman við sovéska lærifeður sína, ef stefna þeirra er algjörlega samkynja? Evró-kommúnisminn er þó ekki nema dauft bergmál af sovésku endurskoðunarstefnunni og skilur sig á engan hátt frá henni. Evró-kommúnisminn er Krúsjeffskenningin í V-Evrópu og ekkert fram yfir það.

Framhald á bls. 3






Verkfallsvarsla BSRB

# BSRB: Eðlileg úrslit

Síðast liðinn sunnudag lauk talningu á atkvæðum í atkvæðagreiðslu þeirri sem fór fram vegna kjarasamninga BSRB og ríkisvaldsins. Tölurnar voru þær að 6050 manns tóku þátt í atkvæðagreiðslunni eða 67% félagsmanna BSRB. 4488 manns voru samþykkir samningunum þ. e. 73% þátttakenda. 1132 manns voru andvígir samningunum þ.e. 19% þátttakenda. 330 manns fóru að ráðum Péturs Péturssonar útvarpsþular og skiluðu auðu í atkvæðagreiðslunni þ. e. 5,5% þátttakenda. 8 atkvæði voru ógild.

Úrslitin þurfa ekki að koma neinum á óvart. Félagar BSRB eru orðnir langþreyttir í því erfiða verkfalli sem lauk nú fyrir skömmu og var þeirra frumraun. Mjög athyglisvert er þó hversu margir voru reiðubúnir að halda baráttunni áfram og lýstu jafnframt óánægju sinni yfir samningunum. Línurnar milli ríkisvaldsins og almennra starfsmanna þess hafa komið skýrt fram. Þessar línur eru enn til staðar og verða það meðan borgaralegt ríkisvald er til staðar. Þetta ríkisvald mun stöðugt berjast fyrir sínum stéttarlegu hagsmunum sem eru gjörsamlega andstæðir hagsmunum vinnustéttanna.

Þess vegna er nauðsynlegt að starf að hagsmunamálum opinberra starfsmanna pólitískt og faglegt, verði fram haldið en leggist ekki niður þó svo þessari einstöku baráttu sé nú lokið. Það félagslega starf sem unnið var af meðlimum BSRB í verkfallinu leiddi margt jákvætt af sér og var sérlega styrkjandi fyrir samstöðu og fréttaflutning innan bandalagsins. Þessi samstaða má hvergi bresta, hana á að efla stöðugt því öll vitum við að nýafstaðin stéttaátök voru alls ekki þau síðustu.

BSRB verður að mæta vel undirbúið til næstu orustu og það skulum við hafa í huga að samstaðan er það sem ræður úrslitum.



## Greinaflokkur á döfinni

Í næstu eintökum af Stéttabaráttunni mun blaðið birta grein Maós Tse-tungs sem nefnist "Hin tíu megintengsl". Grein þessa flutti Maó upphaflega sem ræðu á fundi pólitískrar framkvæmdanefndar miðstjórnar Kommúnistaflokks Kína 25. apríl 1956.

Í greininni dregur Maó saman í tíu meginatriðum stefnu KFK og uppbyggingar sósíalismans í Kína. Grein þessi er mikilsvert framlag til baráttu kínverskra kommúnista og skýr leiðsögn til þeirra um það að hvaða markmiðum skuli stefnt í hinni sósíalísku uppbyggingu. Og jafnframt hvernig þeim skuli náð. Þessi grein á vissulega einnig erindi til Íslendinga. Því við höfum einnig þörf fyrir að læra af erlendum hlutum. Þar er fordæmi kínverja ekki hvað síst mikilvægt.

Stéttabaráttan vill hvetja alla lesendur sína til að fylgjast vel með þessum greinaflokki því af honum getum við verulega mikið lært.

**Frá herstöðva andstæðingum**

*sjá baksíðu*

**Hvað er IMF ?**

*sjá baksíðu*

**Opið bréf til EIKm-l**

*sjá bls. 2.*

# Styrjaldarhættan eykst

Óveðursský nýrrar heimsstyrjaldar hrannast nú upp við sjóndeildarhringinn. Jafnframt því sem bandarísku heimsvaldasinnarnir draga sig inn í skel sína, vex ofstopi og yfirgangur sósíalheimsvaldasinnanna. Þeir dagar eru nú senn á enda, að Sovétríkin geti skreytt sig með titlinum "sósíalískt forystuafl heimsbyltingarinnar"! Glæpaferill þeirra er orðinn svo langur og heimsvaldaeðli þeirra svo ljóst, að gegn þeim hefur risið sterk andstaða um víða veröld. Það er ekki bara V-Evrópska auðvaldið sem snýst gegn yfirráðastefnu Sovétríkjanna, heldur einnig fjölmörg lönd þriðja heimsins og alþýða V-Evrópu í auknum mæli. Heiminum er að verða ljóst, að hættan á styrjöld kemur ekki lengur úr vestri, heldur úr austri - frá Kreml.

Styrjaldarógnir Sovétríkjanna færast í aukana.

Þegar Sovétríkin réðust inn í Tékkóslóvakíu árið 1968, voru öflug mótmæli gegn innrás þeirra í víðri veröld. Endurskoðunarsinnar V-Evrópu, þeirra á meðal Alþýðubandalagið, fordæmdu innrásina, alla vega í orði. En síðan hefur annað verið upp á teningum. Sovétríkin hafa hlutast til um innanríkismál æ fleiri ríkja sérstaklega í Afríku. Sovésku sósíalheimsvaldasinnarnir hafa ástundað útþenslu og árásarstefnu, sem helst er að líkja við útþenslu fasistaríkjanna fyrir síðustu heimsstyrjöld. Þeir hafa skipt sér af þróun mála í Bangla Desh, Indlandi, Chile, Angóla, Eþíópíu og víðar. Þeir hafa reynt að standa gegn útvíkkun 200 mílna fiskveiðilögsögunnar alls staðar. Þeir mótmæltu íslensku útfærslunni formlega, neita að viðurkenna fiskveiðilögsögu Japans og Eystrasaltsríkjanna og hafa hvað eftir annað ruðst inn fyrir lögsögu Argentínu og fleiri þriðja heims ríkja. Umsvif þeirra á öllum heimshöfum hafa færst í aukana, jafnframt því sem málæði Zsar -

Framhald á baksíðu.

## LEIÐARI

14.11.1977.

FJÁRLAGAFRUMVARPIÐ

Það vekur alltaf nokkra athygli þegar lagt er fram nýtt fjárlagafrumvarp og eins hefur það orðið nú. Erlendar skuldir eru farnar að skipta hundruðum þúsunda miðað við hvert mannsbarn og aðal atvinnuvegirnir rétt skrimta með stórfelldri ríkisaðstoð. Þróunin undanfarin ár hefur öll verið á þá leið að í hvert skipti sem atvinnurekendur hafa kvartað, hefur verið létt af þeim byrðunum og þær færðar yfir á herðar verkalýðsins. Þetta nýja fjárlagafrumvarp er ekki í neinu frábrugðið stefnu síðasta árs og enn er það hinn vinnandi maður sem verður látinn taka á sig auknar byrðar.

Þó ekki sé kominn fram nema hluti þeirra útgjaldaliða sem ríkið mun þurfa að greiða, þá er ljóst að hækka verður tekjustofna ríkisins verulega á næsta ári. Það er vitað að ekkert lát verður á hækkunum á liðum eins og hita, rafmagni og síma en það virðist vera orðinn fastur liður á nokkurra mánaða fresti nú orðið. Fólk kippir sér því ekki upp við það, en nú á einnig að fara að breyta innheimtukerfi skatta og ríkisstjórnin ætlar að láta líta svo út að hún sé að þessu fyrir almenning. Fjármálaráðherra talar um "réttlátara skattakerfi" og lætur í það skína að staðgreiðslukerfi skatta sé slíkt kerfi, en er það innheimtukerfið sem er óréttlætið við skattana? Flestir þeir sem lifa verða af þeim tekjum sem þeir afla með vinnu sinni álíta það ekki. Ranglætið í skattakerfinu felst í því hverjir það eru sem greiða skatta og hverjir ekki, og nú þegar nær öll yfirvinna er að hverfa skiptir þessi breyting enn minna máli, eða nánast engu. Ef nokkur áhugi væri fyrir að leiðrétta skattakerfið þá væru skattar ekki lagðir á allt of lágar tekjur almennings, heldur væru þau 500 fyrirtæki sem nú eru tekjuskattslaus látin bera þær byrðar. En hvorki þessi ríkisstjórn eða þær sem á undan eru gengnar hafa viljað breyta þeirri þróun, sem orðið hefur vegna aukinna erfiðleika í auðvaldsheiminum. Ef litið er á stærstu liði fjárlagafrumvarpsins þá mætti skipta þeim í tvo liði sem báðir þjóna sama markmiði, að viðhalda gróða íslenskra atvinnurekenda, um leið og þeir auka vanda almennings. Fyrst og fremst er lögð á það áhersla í frumvarpinu að miða fjárfestingar ríkisins við það að einkafyrirtæki geti margfalt notið góðs af. Þess vegna fjárfestir ríkið ekki í öðru en því sem styður við "einkaframtakið". Gott dæmi um þetta er járnblendiverksmiðjan, en meðan á byggingu hennar stendur vinna fjölmörg íslensk fyrirtæki við hana. Í þessu tilfelli er ekki spurt um hvort verksmiðjan sé þjóðhagslega hagkvæm, það er látið liggja milli hluta, slík vandamál er ekki hægt að leysa á grundvelli stundagróðans. Það mætti auðvitað nefna fleiri dæmi um þjóðfélagslega óarðbærar fjárfestingar, sem mala gull fyrir einstaka fyrirtæki um tíma, en þetta verður látið nægja. Hinn stóri liðurinn í frumvarpinu eru erlendu lánin. Allar meiriháttar fjárfestingar ríkisins eru fjármagnaðar með erlendum lánum sem með tímanum eru að snúast upp í andstæðu sína. Þessi miklu erlendu lán áttu að vera til þess að styrkja framleiðsluna, en með tímanum hefur komið í ljós að þessi mikla skuldasöfnun dregur úr framleiðslugetunni. Stöðugt stærri hluti þjóðarteknanna fer í að borga vexti auk þess sem erlendu lánin hafa verið einn mesti hvatinn á verðbólguna.

Verkafólk getur ekki frekar nú en endranær treyst á ríkisstjórnir eða að nokkur þeirra miði ráðstafanir sínar við hagsmuni almennings. Ef svo væri kæmi það þannig út að í stað staðgreiðslukerfis væru skattar af tekjum verkafólks afnumdir, en þess í stað fengi ríkið sínar tekjur frá atvinnufyrirtækjum. Fjárfestingar ríkisins væru þá heldur ekki miðaðar við skjótfenginn einkagróða heldur hagsmuni almennings, sem eru stöðugt verðlag, full atvinna og að dagvinnan ein nægi til lífsviðurværis.

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

● Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar. sími: 27810 og pósthólf 1357, 121R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð. Lindargötu 15. Opið mánud.-föstud.15-18,30

● Akureyri: Jón Atli Játvarðsson. Hafnarstræti23.

● Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsd. Reykjavíkurvegi 24.

● Hornafjörður: Skúli Waldorff. Silfurbraut 2.

● Ísafjörður: Kristinn Karlsson. Fjarðarstræti 7.

● Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir. Þiljuvöllum38.

● Snæfellsnes: Sigfús Almarsson. Hellisbraut 10 Hellissandi, og Gísli Hjaltason, pósthólf 63, Stykkishólmi.

● Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallargötu 40c, Keflavík.

Laugarvatn: Einar Jónsson Menntaskólanum Laugarvatni.

● Danmörk: Magnús Þorgrímsson. Börglum Kollegiet v.444 Börglumvej 2, 8240 Risskov.

● Svíþjóð: Kristján L. Guðlaugsson, Kämnärsvägen 3A:218. 222 46 Lund.

# Opið bréf til EIKm-l

Kommúnistaflokkur Íslands marxistar-lenínistar fagnar opnu bréfi EIK(m-l), sem birtist í 8. tbl. Verkalýðsbl. 1977. Það er mat KFÍ/ml að þessar spurningar séu settar fram með það að markmiði að félagalegar umræður geti átt sér stað milli KFÍ/ml og EIK(m-l), sem eiga að geta leitt til sameiningar. KFÍ/ml lítur einnig svo á að EIK(m-l) hafi með þessu bréfi, ómerkt fyrri yfirlýsingu sína frá 4. feb. 1977, að: "KFÍml" er endurskoðunarsinnaður hentistefnuflokkur. Við hann verður hvorki höfð samvinna eða viðræða", og að þeir fjórir punktar sem í bréfinu birtast sem rökstuðningur, séu ekki lengur þröskuldur í vegi fyrir því, að viðræður geti átt sér stað, eins og rökstutt var í Stéttabaráttunni 15.2.1977. EIK(m-l) endaði umræðurnar um áramótin með svari sínu við opnu bréfi KFÍ/ml, 4. feb. '77, en þar lagði KFÍ/ml til að haldin yrði opin ráðstefna, sem hefði stofnun nýs sameinaðs flokks marxista-lenínista að markmiði. Í bréfi KFÍ/ml kemur meðal annars fram: "3. landsfundur miðstjórnar KFÍ/ml telur rétt að boðað verði til opinnar ráðstefnu allra marxista-lenínista, næstkomandi sumar (eða fyrr). Ráðstefna þessi skal taka til umfjöllunar mikilvægi slíkrar sameiningar á grundvelli einingar og jafnréttis Hún skal ræða raunhæfa möguleika á yfirvinna samtakaeigingirni og tregðu sem ríkjandi er í afstöðu til sameiningar. Hún gæti til dæmis kosið undirbúningsnefnd sem skipulegði umræðu og starf fyrir þing hins sameinaða marxsk-leníníska kommúnistaflokks.

Við æskjum þess að þið látið álit ykkar í ljós á slíkri opinni ráðstefnu og jafnframt hvort þið séuð reiðubúin til aukins samstarfs og umræðu er miði að sameiningu KFÍ/ml og EIK(m-l).

Við leggjum til að þið tilnefnið 2-3 fulltrúa í nefnd, sem annaðist formlegan undirbúning ráðstefnunnar." (Stb. 17.1.1977, Opið bréf KFÍ/ml)

KFÍ/ml hefur alltaf verið tilbúinn til samstarfs og sameiningarviðræðna og fagnar því breyttri afstöðu EIK(m-l) til þessa máls og vonar jafnframt að þær umræður sem nú eru að hefjast, megi enda sem mikill sigur fyrir marxismann-lenínismann. Heyjum því umræðurnar í þessum anda: "Stundið marxisma og ekki endurskoðunarstefnu; sameinist og sundrist ekki; verið hreinskilin og heiðarleg og takið ekki þátt í pukri eða samsæri."

Svör við spurningum í Opnu bréfi EIK(m-l).

Spurning 1. er svona: "Hvaða atriði eru það sem sundra en sameina ekki í stefnugrundvelli EIK(m-l) og hvernig er vikið frá marxlenínismanum í honum?"

SVAR: KFÍ/ml hefur aldrei haldið því fram að stefnugrundvöllur EIK(m-l) komi í veg fyrir að sameiningarviðræður geti átt sér stað. Þó eru nokkur atriði í honum sem við erum ekki alls kostar sammála, eins og eðlilegt er, þar sem KFÍ/ml hafði ekki tækifæri til að taka þátt í samningu hans. Við teljum ekki ástæðu til að fara yfir þetta í smáatriðum, en viljum þó benda á nokkur atriði. Sérstaklega er matið á forsögu KFÍ/ml yfirborðslegt og ekki í samræmi við raunveruleikann. Í grundvellinum er algerlega horft fram hjá mikilvægi þess að KSML byggðu á grundvallaratriðum marxismans-lenínismans, allt frá stofnun, þó svo að misjafnlega hafi gengið að færa þau út í starfi á réttan hátt. Það gætir líka viss ósamræmis í mati EIK(m-l) á eigin villum, um leið og á sama tíma störfuðu leiðandi félagar þeirra í endurskoðunarsinnuðum samtökum Þetta er ástæðulaust að fela. Við skulum draga það mikilvægasta fram í hverju máli og nota villurnar til að læra af þeim. KFÍ/ml telur það frekar sundrandi en hitt, er EIK(m-l) lýsir því yfir í grundvellinum að KFÍ/ml séu endurskoðunarsinnaður flokkur. Slíkar yfirlýsingar teljum við vera í mótsögn við það er EIK(m-l) lýsa yfir vilja til sameiningar við KFÍ/ml.

Spurning 2. er svona: "Sameinast marx-lenínistar um grundvallaratriði marxlenínismans og uppgjör við endurskoðunar- og hentistefnu Ef svo er, hvers vegna hefur "KFÍml" ekki tekið nánari afstöðu til Sameiningargrundvallarins?" (ath. gæsalappirnar um KFÍml eru úr bréfi EIK(m-l).)

SVAR: KFÍ/ml hefur hvað eftir annað bent á að marxistarlenínistar sameinast auðvitað á þeim grundvelli sem fram kemur í spurningunni. En okkur er samt ekki ljóst hvernig það sífara getur óhjákvæmilega leitt af því fyrra í spurningunni. Við lítum svo á að stefnugrundvöllur EIK(ml) sem hér er til umræðu, sé það sem félagar EIK(ml) hafa sameinast um og og KFÍ(ml) á sér einnig sína stefnuskrá. Þessir tveir flokkar hljóta því hvor um sig að ganga til sameiningarviðræðna á grundvelli sinnar stefnuskrár.

Spurning 3. er svona: "Hver er afstaða "KFÍml" til grundvallarins og þar með til sameiningar marx-lenínista?"

SVAR: Þetta er nokkurn vegir sama spurningin og nr. 1. og 2. en þó virðist okkur enn gæta nokkurs misskilnings á því hvað stefnugrundvöllur EIKml er. Það verður ekki endurtekið sem fram kom í svari við spurningum 1. og 2., nema það að KFÍ/ml lítur svo á að bæði EIK(m-l) og KFÍ/ml komi til sameiningarviðræðna á grundvelli stefnuskráa sinna. KFÍml telur að EIK(m-l) hafi með stefnuskrá sinni samið hina endanlegu og fullkomnu stefnuskrá og það sama gildir um KFÍ/ml. Það er okkar von að þegar kemur að stofnþingi hins sameinaða flokks, verði samin ný stefnuskrá og að því verki standi bæði félagar KFÍ/ml og EIK(m-l) og þeir aðrir sem vinna vilja að framgangi íslensku byltingarinnar.

Spurning 4. er svona: "Úr því KSML hafði "ranga

Framhald á bls. 3




OLÍUVINNSLAN BLÓMSTRAR Í KÍNA

Framhald af síðu 3

fram tækninýjungar á heimsmælikvarða.

Á síðustu mánuðum hafa fundist algerlega ný svæði í Kína þar sem olía er í jörðu. Einnig hafa verið ákveðnir nýir borunarstaðir á gömlum olíuvinnslusvæðum.

Stéttabaráttan samgleðst kínverskri alþýðu yfir þessum unnu sigrum.



Vinnsla við ný olíusvæði.

(heimild: Peking Review nr. 41 '77)

BRETLAND: KJÖR VINNANDI FÓLKS FARA VERSNANDI.

Kreppan sem reið yfir kapítalísku löndin 1974, fór illa með efnahagskerfi Bretlands. Verðbólga þar í landi hefur aukist mikið síðustu árin. Almennt verðlag hefur hækkað um 77% frá því í febrúar 1974 til ársloka 1976. Frá því í júní á síðasta ári til jafnlengdar á þessu ári hækkaði verð matvæla um 18,6%. Fyrir sök verðhækkananna hefur pundið, gjaldmiðill Breta, fallið feykimikið, er nú aðeins 55% af því verðgildi sem það hafði árið 1974.

Verkalýðssamtökin leika ljótt hlutverk. Þau hafa samið við stjórn Verkamannaflokksins um að halda launum niðri. Samningur þar um tók gildi í ágúst 1975. Fyrsta árið, sem hann gilti, hækkuðu laun um aðeins 10% og annað árið, þ.e. a.s. fram í ágúst í sumar, hækkuðu launin aðeins um 4,5%. Þetta má svo bera saman við verðhækkanirnar.

Bresku verkalýðsforingjarnir eru undir sömu sökina seldir og íslensku verkalýðsforingjarnir. Þeir hafa ekki hagsmuni verkalýðsins að leiðarljósi, heldur hagsmuni atvinnurekendanna og er þeim launað dyggilega fyrir það með setu í alls konar nefndum og ráðum.

Þessi dyggilega framganga verkalýðsforingjanna síðustu árin í þágu atvinnurekenda hefur orðið þess valdandi að ýmsar láglaunafjölskyldur hafa orðið að fá lán hjá okrurum til að hafa í sig og á.

En sumir eru þó ekki svo hólpnir að hafa laun, ekki einu sinni lág. Atvinnuleysingjar náðu 1 miljón í ágúst 1975 og 1,6 miljónum í júlí s.l.

(heimild: Peking Review nr. 41 '77)

# Opið bréf til EIKm-l

Framhald af bls. 2

stefnu í flestum eða öllum baráttumálum" (bréf KSML 19.12.1975.) og sömu grundvallar afstöðu og sænsk, dönsk og norsk gagnbyltingarsamtök (yfirlýst bróðursamtök KSML) - hvernig getur KSML þá haft rétta afstöðu til grundvallaratriða marx-lenínismans og verið marx-lenínísk frá stofnun?"

SVAR: Ef það skýrir eitthvað út fyrir félögum okkar í EIK (m-l), þá skal það tekið fram, að við höfðum aldrei sömu afstöðu og þessi samtök til grundvallaratriða marxismans lenínismans (baráttumál eru ekki sama og grundvallaratriði).

Auk þess var KSML aðeins "yfirlýst bróðursamtök" sænsku samtakanna, en það skal þó tekið fram að svo til frá upphafi ríkti engin eining við þessi samtök, heldur miklu fremur barátta við þau. Þetta kom til vegna mismunandi afstöðu til nokkurra grundvallaratriða marxismans-lenínismans, en þó ber að benda á að vegna áhrifa þessara sænsku samtaka, apaði KSML upp nokkuð af starfsstíl þeirra, sem síðan var leiðréttur á grundvelli marxismans-lenínismans. Um nánari lýsingu á þessu, vísum við til skýrslu miðstjórnar KSML, sem birst hefur í bæklingnum "Hvað vill KFÍ/ml".

Nú höfum við lokið við að svara þessum fjórum spurningum, en vonum þó að þetta sé ekki það síðasta sem fer á milli EIK(m-l) og KFÍ/ml, heldur upphafið að árangursríkum umræðum sem leitt geti til sameiningar. Við viljum leggja á það áherslu að báðir aðilar líti á hvor annan sem marxista-lenínista og vinni að sameiningu af hreinskilni og heiðarleika. Það er einnig ósk okkar að smáatriðin verði ekki gerð að aðalatriðum og að öllum stóryrðum verði mjög í hóf stillt.

Þó okkur sé það ekki ljúft, þá verðum við líka að fara fram á það að EIK(m-l) lýsi leiðarann í 3. árg. 12. tbl. Verkalýðsblaðsins ómerkan, eða þann hluta sem fjallar um KFÍ/ml, en þar segir: "EIK (m-l) merkja hins vegar samtökin "KFÍml" sem ónothæfa og óstarfhæfa klíku". Þessi og aðrar ámóta yfirlýsingar sem fram koma í þessum leiðara eru sundrungarstarf og settar fram gegn sameiningu. Við lítum því svo á að þetta séu mistök, þar til nánari staðfesting fæst.

Með félagakveðjum
fyrir hönd KFÍ/ml
Framkvæmdanefnd KFÍ/ml.

# Tilkynning...

Framhald af baksíðu

Auk þess skorar Baráttuhreyfingin á öll framsækin og sjálfstæð öfl í landinu að þau afhjúpi fyrir næstu kosningar hlutverk IMF og ráðagerðir bandamanna þess á Íslandi gegn hagsmunum þorra landsmanna og gegn sjálfstæði landsins.

Reykjavík, 10. nóv. 1977.

Stjórn Bgh skipa: Örn Ólafsson, Gísli Pálsson, Ingibjörg Haraldsdóttir.

# Samþykkt SHA um 21. ágúst

Það geta allir herstöðvaandstæðingar, sem það vilja, gengið úr skugga um að nýafstaðin ráðstefna þeirra að Festi tók skýra og ákveðna afstöðu til aðgerðana 21. ágúst. Það stoðar ekki fyrir Verkalýðsblaðið að slá striki yfir það að sú ályktun sem hér fer á eftir (og var birt í 37. tbl. Stéttabaráttunnar) var það eina sem ráðstefnan samþykkti um málið og ber því að skoða sem niðurstöður af umræðunni um 21. ágúst sem fram fór á ráðstefnunni. Ályktunin hljóðar svo:"Samtök herstöðvaandstæðinga vilja árétta þá skoðun sína að samtökin berjast gegn allri heimsvaldastefnu og drottnunarstefnu hvaðan sem hún kemur. Markmið samtakanna er að Ísland gangi úr NATO og bandaríski herinn verði rekinn héðan burt. Ennfremur vilja SHA fordæma á drottnunarstefnu, sem Varsjárbandalagið og Sovétríkin sýna öðrum ríkjum, eins og t.d. fram hefur komið gagnvart tékknesku þjóðinni. SHA hafa barist og munu berjast gegn drottnunarstefnu frá hvaða þjóð sem hún stafar, þar sem hún ógnar fullveldi og sjálfstæði þjóða og er ógnun við heimsfriðinn" Eins og að ofan má sjá felst allsengin gagnrýni á SHA í ályktuninni heldur vísar hún þvert á móti gagnrýni Ara Trausta og fl. á bug þar sem hún staðfestir línu miðnefndar í starfinu að 21. ágústaðgerðunum.

Framhald af forsíðu

# Evrópukommúnisminn

Orsakirnar fyrir deilum endurskoðunarsinna.

Carillo var meinað að halda ræðu á hátíðarfundi endurskoðunarsinna, sem haldinn var í Moskvu af tilefni 60 ára afmælis Októberbyltingarinnar. Þessi ósvífna framkoma sovésku sósíalheimsvaldasinnanna vakti að vonum mikinn urg meðal annara Evró-kommúnista. Til að mynda mótmælti sænski endurskoðunarsinninn L.Werner þessu í "vináttu" ávarpi sænska flokksins við sama tækifæri og Carillo fór sjálfur heim í fússi. En af hverju deila þessir aðilar sem eru þó fræðilega sammála um stuðning sinn við auðvaldið? Orsökin er fyrst og fremst sú, að endurskoðunarsinnarnir í hinum öflugu iðnveldum V-Evrópu (t.d. Frakklandi, Ítalíu, Spáni) og einnig í Japan, vilja ekki sætta sig við taumlausa valdagræðgi og ofstopa sovésku sósíalheimsvaldasinnanna. Sovésku leiðtogarnir vilja gera flokkana í V-Evrópu að lítilþægum Quislingum í heimalöndum sínum, sem eiga að undirbúa valdatöku Sovétríkjanna í V-Evrópu. Þetta vilja Evró-kommúnistarnir ekki heyra nefnt, þar sem þeir ætla sér sjálfum leiðtogahlutverk borgaralega þjóðfélagsins í heimalandi sínu. Berlinguer ætlar ekki að verða Quisling Ítalíu, hann ætlar að verða Brésneff Ítalíu. Hið sama er að segja um hina Evró-kommúnistana. Þeir eru fullir þjóðhroka, nákvæmlega eins og sovésku lærifeðurnir þeirra.

Að vissu leyti er þetta ágætt, því aukið sjálfstæði evrópsku endurskoðunarsinnaflokkanna gagnvart Sovétríkjunum tefur sósíalheimsvaldasinnana í ætlunarverki sínu, - að ná heimsyfirráðum. Megi sundrungin eflast og lifa innan vébanda endurskoðunarsinnanna. Evró-kommúnisminn leggur þar drjúgt að mörkum.







SANTIAGO CARILLO

RAUÐUR VETTVANGUR frá lesendum

RAUÐUR VETTVANGUR frá lesendum

# Hverjir samþykktu hvað og hvar?

LEIÐRÉTTING

Eftirfarandi leiðrétting ósk-ast birt í Stéttabaráttunni:

Í smápistli í Stb. nr. 37, er sagt frá fréttaflutningi Verkalýðsblaðsins, um landsráðstefnu SHA. Í blaðinu segir "Meðal annars kemur þar fram að "Gagnrýni á aðgerðir SHA 21. ágúst sl. fyrir utan sovéska sendiráðið var samþykkt (tilvitnun lýkur). Þeir sem sátu ráðstefnuna kannast sjálfsagt ekki við neina slíka samþykkt." (bls. 3 Stb.)

Verkalýðsblaðið er svo ásakað fyrir að fara með staðlausa stafi "eins og svo oft áður".

Rétt er tilvitnunin í VBL nr. 12 svona:

"Gagnrýni á SHA..... var samþykkt, en hins vegar var skorturinn á samstarfi við 21. ágúst nefndina varinn og og sömuleiðis þokukennd kjörorð samtakanna í þeirri aðgerð (bls. 2)

Það þykir léleg latína að vitna ekki í heilar setningar. Tilvitnuninni lýkur alls ekki þar sem Stb. setur punkt. En aðalatriðið er þó hlægilegur misskilningur Stb. Að samþykkja gagnrýni er ekki það sama og að gera samþykkt.

Á ráðstefnunni var tekið undir stuðningur marx-lenínista á mörg atriði varðandi 21. ágúst en ekki þau veigamestu eins og Vbl. getur réttilega um.

4/11 fh. EIK(ml)

Ari Trausti Guðmundss. (sign)

Gagnrýni á aðgerðir SHA 21.ágúst s.l. fyrir utan Sovéska sendiráðið var samþykkt,en hins vegar var skorturinn á samstarfi við 21. ágúst-nefndina varinn og og sömuleiðis þokukennd kjörorð samtakanna í þeirri aðgerð.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ OG SAMTÖK HERSTÖÐVAANST.

Í Verkalýðsblaðinu 12. tbl. 3. árg. sem gefið er út af Einingarsamtökum kommúnista marx-lenínistum, gefur að líta nokkuð einkennilega frétt frá Landsráðstefnu SHA. Meðal annars kemur þar fram að "Gagnrýni á aðgerðir SHA 21. ágúst s.l. fyrir utan Sovéska sendiráðið var samþykkt (tilvitnun lýkur). Þeir sem sátu ráðstefnuna kannast sjálfsagt ekki við neina slíka samþykkt, þvert á móti. Það var enginn sem samþykkt var í sambandi við 21. ágúst var ályktun (sem birt er annars staðar í blaðinu) sem kveður skýrar á um baráttu SHA gegn allri heimsvaldas fnu. Þessi ályktun er ekki "gagnrýni" á aðgerðir SHA 21. ágúst heldur ótvíræður stuðningur við þær aðgerðir. Eins og svo oft áður fer Verkalýðsblaðið hér með staðlausa stafi, sem þeir ættu að skammast sín til að leiðrétta.

Stéttabaráttan birtir hér aftur klausu Verkalýðsbl. og sína eigin.



...í stuttu máli

LITHÁAR BERJAST GEGN YFIRGANGI RÚSSA.

Þann 10. okt. kom til alvarlegra óeirða í Vilnius í Litháen. Orsök óeirðanna var sú, að mannfjöldi sem fylgdist með knattspyrnuleik hóf að syngja "burt með rússana". Lögreglan og KGB-menn reyndu að handtaka nokkra sem stóðu framarlega í söngnum, en mannfjöldinn kom í veg fyrir það. Leikurinn barst síðan út á götur borgarinnar, þar sem mannfjöldinn velti lögreglubílum og kveikti í þeim, reif niður borða og veggspjöld. Sjónvarpað var frá fyrstu mínútum leiksins, en þegar söngur áhorfenda tók að hljóma inn á heimili rússneskrar alþýðu var útsendingin stöðvuð. Allnargir mótmælenda voru handteknir og daginn eftir var fjölmennt herlið staðsett á götum Vilnius. Andspyrna Litháa gegn drotnunarstefnu Rússa hefur færst mjög í aukana á undanförnum árum., sem raunar andstaða annara þjóðarbrota í Sovétríkjunum við yfirgang stórrússneskra þjóðrembingssinna.

KOMMÚNISTAFLOKKUR KAMBÓDÍU 17 ÁRA

Þann 27. september sl komu 10.000 manns saman í Pnom Penh höfuðborg Kambódíu, til þess að fagna 17 ára afmæli Kommúnistaflokks Kambódíu (KFK). Pol Pot aðalritari miðstjórnarKFK, rakti sögu og tilverugrundvöll KFK í ræðu: Árið 1957 var stofnuð nefnd til að leggja drög að pólitískri stefnuskrá marx-lenínísks flokks, sem síðan var stofnaður í Pnom Penh, dagana 28. - 30. september 1960. Stofnun KFK skipti sköpum fyrir baráttu kambódísku þjóðarinnar og kambódísku verkalýðsstéttarinnar.

Eftir stofnunina lagði flokkurinn upp þá línu að samfylkja þjóðinni gegn bandarísku heimsvaldastefnunni til að Kambódía gæti öðlast þjóðlegt sjálfstæði. Einnig setti flokkurinn sér það mark að steypa lénsherrunum og veldi þeirra og arðránskerfi, eftir að þjóðlegu byltingunni væri lokið.

Lon Noi klíkan, leppstjórn bandaríska heimsvaldasinnanna komst til valda snemma árs 1970. Það tók kambódísku þjóðina aðeins 5 ár og 1 mánuð að steypa henni af stóli og var KFK að sjálfsögðu þar í fararbroddi, leiðandi afl í pólitískinni og einkum hernaðarlegri baráttu sem háð var.

Eftir byltinguna hefur verið hafist handa við uppbyggingarstarfið og þegar á síðasta ári var því marki náð að þjóðin gæti brauðfætt sig.

(heimild: Peking Review nr. 41 '77)

OLÍUVINNSLA BLÓMSTRAR Í KÍNA.

Þeim olíulindum í Kína, sem notaðar eru fjölgar æ og olíuframleiðslan eykst ár frá ári. Á fyrstu 8mánuðum þessa árs jókst framleiðsla jarðolíu um 10% og bensíns um 24% sé borið saman við sömu mánuði á síðasta ári. Framleiðsla tæknibúnaðar fyrir olíuvinnsluna hefur víða farið fram úr áætlun. Ennfremur hafa komið

Framhald á síðu 2



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan

Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
40. tbl 15. 11. 1977

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.




# Fréttatilkynning

## Hvað er IMF ?

IMF: Efnahagslögregla alþjóðlega auðvaldsins.

-Orðsending frá Baráttuhreyfingu gegn heimsvaldastefnu (Bgh)-

Undanfarna daga voru staddir hér á landi fulltrúar hins svokallaða alþjóða gjaldeyrissjóðs (IMF), til viðræðu við forráðamenn íslenskra fjármála og til "ráðgjafar" við gerð fjárlagafrumvarpsins. Af þessu tilefni og með tilliti til markmiða baráttuhreyfingarinnar, telur Bgh sér skylt að vekja athygli almennings á eftirfarandi atriðum:

1. IMF er ekki alþjóðlegur nema að formi til. Bandaríkin og fáein auðvaldsríki ráða stefnu sjóðsins - sem handhafar einkafjármagns - í krafti hluthafaeignar, stjórnunaraðstöðu og starfsmannaskipunar.
2. Markmið IMF er að koma þjóðum heimsins á klafa fjölþjóða banka og auðhringa, og tryggja athafnafrelsi þeirra í aðildarríkjum sjóðsins.
3. Markmiðum sínum nær IMF með því að skipa fyrir efnahagsstefnu, sem liðkar fyrir frjálsu streymi fjármagns og vara og sem stuðlar að síauknum erlendum lántökum.
4. Efnahagsstefna IMF leiðir alls staðar og á öllum tímum til ráðstafana gegn alþýðunni: Sífelldar gengisfellingar, aukin verðbólga og versnandi lífskjör vinnandi manna.
5. Efnahagsstefna IMF hefur leitt til blóðugra aðgerða gegn alþýðunni í þrem heimsálfum. Til að framfylgja "ráðleggingum" hvítflibbamorðingja frá IMF í Washington, hafa stjórnvöld Egyptalands, Fillipseyja, Guatemala Brasilíu, Chile og Argentínu, beitt lögreglu gegn fátæku fólki, með hörmulegum afleiðingum.
6. Efnahagsstefna IMF hefur m.a. leitt til þess að skuldir þróunarlanda til samans hafa fimmfaldast á síðustu 10 árum og bilið milli ríkra og fátækra þjóða aukist enn.
7. Afskipti IMF af innanríkismálum Ítalíu, Portúgals og Bretlands endurspegla aukin yfirráð Bandaríkjanna, Vestur-Þýskalands og Japans innan sjóðsins og afhjúpa í fyrsta skipti pólitískt hlutverk sjóðsins fyrir alþýðu Evrópuríkja.
8. Ítök sín í seðlabönkum og fjármálaráðuneytum einstakra landa treystir IMF með því að planta trúnaðarmönnum sínum í lykilstöður í hverju landi. Þessir menn eru þegnar viðkomandi ríkja sem fá skólun í aðalstöðvum IMF í Washington. Þar eru þeir látnir fá mjög há laun og ýmis konar fríðindi til þess að venja þá að lifnaðarháttum og hugarfari auðstétta í heimaríkjum sínum.
9. IMF er ekki aðeins erkióvinur alþýðunnar, heldur einnig óvinur lýðræðisins. Samskipti sjóðsins við þjóðríki eru vísvitandi hulin ábreiðu sérfræðiþekkingar en umræður um þessi samskipti fara ekki fram á þjóðþingum, þótt þau skipti sköpum fyrir afkomu og stjórnarfar í hverju landi.
10. Á Íslandi er aðalfulltrúi IMF dr. Jóhannes Nordal, Seðlabankastjóri og postuli erlendra auðhringa með meiru. Samskipti hans við IMF eru einkamál hans. Það er á hans valdi að skammta upplýsingum til íslenskra stjórnvalda um samskipti sín við IMF.

Af þessum sökum, fer Baráttuhreyfing gegn heimsvaldastefnu á leit við íslensk stjórnvöld, að þau geri héðan í frá opinberlega grein fyrir öllum samskiptum embættismanna ríkisins við IMF og við systurstofnun þess, hinn svokallaða Alþjóðabanka.

Framhald á bls. 3




Risaveldin hafa hvort um sig gert áætlanir um, á hvern hatt "orrustan um Evrópu" a að fara fram. Her að ofan er synishorn af þessum aætlunum um stríð í Evrópu.

# Styrjaldarhættan eykst framh.af forsíðu

anna um" détente" magnast. Afvopnun og vígbúnaðarkapphlaup geta ekki þrifist samhliða. Staðreyndin er sú, að sovésku sósíalheimsvaldasinnarnir vígbúast af kappi og undirbúa styrjaldaráform sín. Tal þeirra um afvopnun og "détente" getur ekki dulið þessa staðreynd. Sovésku fulltrúarnir við SÞ reyndu að láta líta svo út, sem afvopnun væri aðal viðfangsefni þingsins nýverið. Það kom hins vegar í ljós að áhugi aðildarríkjanna fyrir afvopnunartali sovésku sósíalheimsvaldasinnanna hefur dofnað verulega. Á fjórða degi varð að aflýsa umræðum, þar sem enginn vildi taka til máls. Dagana á undan hafði umræðum eftir hádegi verið frestað vegna hins sama. Þjóðir heims hafa æ betur gert sér grein fyrir hinu raunverulega takmarki Sovétríkjanna með afvopnunar talinu. Þau vilja ekki lengur taka þátt í skrípaleiknum, þvert á móti eru þau að undirbúa sig undir hættuna af árás frá Sovétríkjunum.

Hvaða afleiðingar hefur stefna Carters ?

Allt frá því Helsingforsráðstefnan um frið og öryggi í Evrópu var haldin hafa Sovétríkin eflt útþenslustefnu sína. Helsingforsráðstefnan gaf þeim grænt ljós að vissu leyti, þótt ráðstefnan sem nýverið var haldin í Belgrad, hafi ekki verið eins hvetjandi fyrir þau. Þegar Hitlers Þýskaland hafði lagt Súdetahéruðin undir sig með ofbeldi, Ítalía hafði ráðist inn í Eþíópíu og Albaníu, þrátt fyrir mótmæli Þjóðabandalagsins og Japan hafði ráðist inn í Kína, var haldin ráðstefna um frið og öryggi í Evrópu í München árið 1938. München -ráðstefnan lagði blessun sína yfir ofbeldi nasismanns. Helsingfors-ráðstefnan lagði á sama hátt blessun sína yfir ofbeldi og útþenslu Sovétríkjanna ekki aðeins í austurhluta álfunnar, heldur einnig í Afríku og víðar. Stefna Carters Bandaríkjaforseta hefur verið sú, að draga úr óvinsældum Bandaríkjanna og draga sig til baka. Hún minnir um margt á stefnu Wilsons, eftir fyrri heimsstyrjöldina. Bandaríkjamenn vita að til styrjaldar dregur, en þeir vilja beina árásum Sovétríkjanna í aðrar áttir. Þeir vilja ekki að sovésk flugskeyti leggi bandarískar borgir í rústir, þeir vilja að styrjöldin verði háð í Evrópu og Asíu. Helst myndi Carter vilja að Sovétríkin réðust gegn Kína, en þróun mála bendir til þess, að Evrópa verði í miðpunkti styrjaldarátakanna. Þótt Carter bíði átekta, merkir það alls ekki að Bandaríkin séu orðin hættulaus. Þvert á móti er tilvera bandarísku heimsvaldastefnunnar ógnun við heimsfriðinn. Styrjaldarhættan er bein afleiðing af innbyrðis samkeppni risaveldanna tveggja um heimsyfirráð.

Baráttan gegn styrjaldarhættunni.

En samtímis því sem dregur til átaka, magnast líka þau öfl sem vilja afstýra þeim. Fyrst og fremst eru það ríki þriðja heimsins og alþýða í heimsvaldaríkjunum. En sjálfstæðisviðleitni annars heims ríkjanna er einnig mikils virði. Þeim mun minni möguleika sem risaveldin hafa á tryggum bandamönnum í styrjaldarfyrirætlunum sínum, þeim mun betra. Þess vegna er öll sjálfstæðisviðleitni gagnvart risaveldunum til þess að draga úr styrjaldarhættunni og draga átökin á frest. Lönd eins og Frakkland, Kanada og Svíþjóð hafa snúist gegn Bandaríkjunum og Júgóslavía, Rúmenía og Egyptaland gegn Sovétríkjunum Þessi þróun er til hagsbóta fyrir friðinn. En það sem mestu máli skiptir er, að verkalýður og öll alþýða Evrópulandanna geri sér grein fyrir styrjaldarhættunni og snúist til baráttu gegn henni. Alþýða Íslands er langt því frá búin undir að mæta innrás frá Sovétríkjunum. Og hún getur ekki vænst varna frá Bandaríkjunum, Þau hafa sinn her hér til þess eins að verja eigin hagsmuni. Ísland verður að standa fast á þeirri afstöðu, að viðhalda ævarandi hlutleysi Það merkir í fyrsta lagi, að reka verður bandaríska herinn á brott og ganga úr NATÓ. Jafnframt felur það í sér að alþýða Íslands verður að búa sig undir að verja land sitt sjálf gegn árásum og yfirgangi risaveldanna. Hún ein getur tryggt sjálfstæði og ævarandi hlutleysi Íslands.

## Tilkynning

Stéttabaráttunni hefur borist fréttatilkynning frá svokallaðri Frumkvæðisnefnd sem mun standa fyrir aðgerðum 1.des. Kjörorð nefndarinnar eru

1. Verjum sjálfræði Íslands.
2. Gegn erlendri stóriðju.
3. Ísland úr NATO-Herinn burt
4. Gegn báðum risaveldunum, USA og Sovét.

# Stéttabaráttan

Nú hefur áskrifta og söluherferðin staðið í rúma tvo mánuði og eru því tæpir tveir þar til henni lýkur. Lausasalan er með besta móti, en hvað áskriftasöfnunina áhrærir verðum við að taka á honum stóra okkar til að ná markmiðinu.

Fyrir áramót verður Stéttabaráttan prentuð á aðra prent vél en verið hefur, og verður útlit og stærð blaðsins þá allt með betra horfi heldur en verið hefur.

Aukin útbreiðsla blaðsins-Bættur fjárhagur-Tíðari úrgáfa.

Hamarinn sýnir aukningu lausasölunnar frá upphafi herferðarinnr, 1 september s.l.
Sigðin telur aukningu áskrifenda á sama tímabili.

Nýjar áskriftir skal póstsenda til : Rauðu Stjörnunnar Lindargötu15, Pósthólf 1357. S: 27810.




# Frá herstöðva andstæðingum

Ut er komið fyrsta fréttabréf miðnefndar Samtaka herstöðvaandstæðinga. Er það ætlað virkum félögum í samtökunum og mun væntanlega koma út mánaðarlega. Er fréttabréfið mjög jákvætt spor í þá átt að tengja saman og samræma störf hinna ýmsu svæðahópa og miðnefndar.

Í þessu fyrsta bréfi er m.a. sagt frá fundum sem fyrirhugaðir eru (og hafa nokkrir þegar verið haldnir). Fundir þessir verða í framhaldsskólum um landsins og verður þar fjallað um herstöðvamálið. Þar munu einstaklingar úr röðum herstöðvaandstæðinga mæta herstöðvasinnum í kappræðum. Í bréfinu er einnig skýrt frá því, að landsráðstefnan ákvað að hefja skyldi reglulega útgáfu Dagfara. Verður hann væntanlega gefinn út á 1-2 mánaða fresti. Þá eru í bréfinu birtar samþykktir ráðstefnunnar um heimildasöfnun, um svæðahópa og um göngur og aðrar aðgerðir.

Fréttabréfið er eins og áður segir til virkra félagsmanna, þeir herstöðvaandstæðingar sem ekki hafa fengið bréfið sent, en hefðu áhuga á því, geta haft samband við skrifstofuna Tryggvagötu 10 Rvík sími 17966.